# KVÆÐI

## I

BENEDICT GRÖNDAL

---

REYKJAVÍK 1856.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS
E. ÞÓRÐARSON.

## NÝJÁRS-HEILSAN

1856.

1. Nú, þegar upp af dökkvu djúpi
dýrðleg fram stígur nýjárssól,
og skrýðir grund með geisla hjúpi
glitrandi bjart frá himna stól:
skyldi þá nokkur meina mèr,
meyja, að heilsa fyrstri þèr?

2. Opt jeg undrandi á þig stari,
allt eins og furðu-stjörnu ljós
undarlegt gegnum geiminn fari,
guðleg, alblómgvuð meyja-rós!
Heimanna guð þèr fremstri fól
fegurðarinnar veldis-stól!

3. Aldrei svo blíðan óm jeg heyri,
eins og þitt fagra dýrðar mál;
jeg veit það, mœr, það finna fleiri,
að fer það gegnum líf og sál;
þinna hljóðstrauma hæstur prís
hefur mig upp í paradís.

4. Alltaf var mín hin mesta sæla
málið þitt heyra vörum frá;
marg-opt það gerði mig að tæla,
margbundinn fjötri þeim jeg lá;
guðlega hljóð, þá greip jeg þig,
gleymdi jeg öllu í kríngum mig!

5. Alltaf jeg man þau mærust kvöldin,
myrkrið þá huldi fjall og dal,
og stjarnan hló um himintjöldin,
að heyra þitt ástar-blíða tal;
þeim var jeg bárum borinn á
bölinu jarðar lángt í frá.

6. Og þegar sól af bjarga brúnum
bláfagurt ljómar himin-skaut,
og gyllir ský með geisla-rúnum,
glóir við dimma ægis braut:
hvað er þá æðst um allan heim,
sem upplýsir hún með blossa þeim?

7. Það ertú, mær! — Sem stjarna stígur
stoltblíð og hæg af marar sæng,
og ljósið gegnum loptin flýgur
lèttkvikum flutt á himin-væng:
eins rístu dýrðar draumi frá,
og dreifir geislum jörðu á.

8. Í hvurt sinn, er á vorin vaknar
úr vetrar-svefni liljan fríð,
og knappur upp á rósum raknar
við röðul-geislans faðmlög blíð:
þá undrast þig hann öllu meir;
aptur sèr lykur brátt, og deyr.

9. Þèr hefur Venus, mætust mynda!
magnað líkama bæði og sál;
umgirt þig sínum ástar-linda,
og alls konar veitt þèr glys og tál:
jeg vildi', að þèr stöðugt væri það
af veraldar hilmi innsiglað!

10. Árið, sem kemur, allt þèr veiti
unaðarríkt, sem finnst um grund!
Fyrir þèr gjörvallt böl sèr breyti
í blíða, fagra gleði-stund!
Stöðug þèr gæfan standi hjá,
stýri þèr öllum harmi frá!

1. jan. 1856.

# STÚLKA.

1. Þegar bjartir lækir buna
að bláum kristalls unnum
gyltir og glaðir
fyrir geislum röðulskærum:
þá lána þeir, ljúfa mær,
sitt fegursta og bezta bros
hjá þínum munni, mær!
þar sem að kossana ástar dreymir í dvala.

2. Og þegar áfram þeir renna
og á þeim geislinn leikur,
og fagrahvelsblikið á björtum unnum hlær:
þá er það ei nema eptirmynd
af enni þínu,
þar sem að unað-geislinn líður og ljómar.

3. Þegar morguninn vaknar móki úr
og myrkum nætur-blundi
með svefnuga brá og svalan úr í auga:
þá lítur hann fyrst um land,
hvurt leynist þú honum nærri;
því hann hyggst að gefa þèr geisla-skrúð
af gullnum daggar-ljóma,
áður en sjálfur setur hann npp
sólfagurt roða-skraut.

4. Í heimi er harðstjóra fjöld,
og hverfa mörgum að dauða,
en varir þeirra ei bærast að brosi
þó búi þeir hel og tjón; —
en þú ert grimmari en þeir,
og þerrir lífsins dögg —
því brosandi veifar þú bitrum ástar hjör.

5. Og morgunroðans bjarta brá
bregðast þú lætur að döprum sorgar gráti; —
við háa hamra brún
hyggst hún að brosa um daga æsku stund;
en ef þú lítur ljósið á,
líður það burt og deyr
og þinn ei þolir ljóma;
grátandi vekjast því gullin daggar tár,
og harmandi býr það sèr helga bana-sæng
af brosi þinnar blíðu.

---

## Á MINNIS-BLAÐ

(frá Fr. G. M. til Fr. M. G. Th.)

---

1. Nú kemur vorið, blóm af köldum beði
úr blundi rís, og lifnar jörð og haf;
og sólin loptið gyllir allt með gleði,
og gæðir lífi allt, sem fyrri svaf;
og láttu mig því líka hreifa strenginn,
og láta gleði-ósk á þetta blað:
á þessu sumri sorg þèr ami engin,
en allt þig gleðji' og styrki — *verði það!*

2. Og aldan há, sem ægis vindar róta,
og undur-hvítum skrýða tignar-fald,
hún rísi blá, og falli þèr til fóta,
og fegurð sína leggi þèr á vald;
og liljan hvít sinn ljósa blóma hneigi,
og lúti þèr í vorsins unað-saung;
og gákktu æ á grænum sumar-vegi,
hans gleði sè þèr bæði skær og laung!

Mai 1853.

## KVÖLD-HUGSUN.

1. Ó þú undra fjöld,
er um vetrar-kvöld
lopti ljómar á,
ljósa-prýðin há!
Trúir þú, að fegra sè á foldu,
fætt af grárri dauðlegleikans moldu?

2. Eina eg veit, sem er
öllu fegri þèr,
stjörnu á storðar leið,
stilta á gullinreið:
Freyju er hún fagurklædd af höndum,
fríðum sveipuð ástarljóma bröndum.

3. Ekki er svo þèr,
uppheims stjarna her,
foldar fegurð lèð.
fáguð ástum með:
aldrei Freyja fór með sínum höndum
fegurð þína' að prýða ástar-bröndum. —

4. Inndæl ertu' og fríð,
ástar-liljan blíð!
munar-rósin mæt!
meyja undur-sæt!
Heill og gæfa heims þèr aldrei deyi,
heldur blómgist æ á þínum vegi!

5. Guð þig geymi æ
á grundu jafnt og sæ:
stöðug vertu' og sterk,
stundaðu fegurst verk;
mart þèr veitti mildur heimsins faðir,
margir af því stoltir væri' og glaðir!

6. Mín þú laungum ljóð
lýstir þinni glóð!
Þinnar birtu bál
bjó í minni sál:
kastaði geisla' á kvæða minna vegi,
krýndi mig, og vissi það samt eigi.

7. Mögnuð mætti þín
margopt fegurð skín
yfir minni önd,
andans leysir bönd:
flýg jeg glaður fram um himins boga,
fagrir þar sem stjörnu-geislar loga.

8. Þó að eyðist allt,
ein þú lifa skalt:
þó fölni fjóla og reyr,
fegurð aldrei deyr;
andinn ríkir, andans fegurð lifir;
öllu góðu ljómar minníng yfir.

---

## MIKIL ERU VERKIN DROTTINS!

1. Uppi' á himins bláum boga
bjartir stjörnu-glampar loga;
yfir sjóinn undur-breiða
unað-geisla máninn slær! —
En hvað er fegurð himinsala?
Hvað er rós, og blómin dala
móti djúpu meyjar-auga,
mátt er allan sigrað fær?

2. Þú, sem þetta þegið hefur
þess af hönd, er fegurð gefur:
*þinn er mátturinn og dýrðin,*
*þèr sè lof um ár og öld!*
Undrastu' ekki orðin þúngu,
eignuð drottni manns af túngu:
andinn guðs í öllu fögru
unir sèr um dag sem kvöld.

28. Jan. 1855.

# TÓLF ÁLNA LÁNGT OG TÍRÆTT KVÆÐI

Á AFMÆLISDAG
JÓMFRÚ SIGRÍÐAR EINARSDÓTTUR SÆMUNDSEN
17. MARZ 1855.

---

1. Rambyggilegast ríki um heim
Rómúlus fyrrum stofna náði;
allan hinn þekkta út um geim
ófrið Rómverjinn stríðan háði. —

---

Athugagrein. Þetta gaman-kvæði hafa sumir álitið fyrir háð; líklega hafa þeir dæmt einhvernveginn eptir sjálfum sèr. Jeg get nú ekki verið að svara þessum mönnum hèr; jeg skal reyna til þess ef á þarf að halda, og þeir mega mín vegna fyrst um sinn taka allt gaman fyrir háð, ef vizku þeirra sýnist svo. Kvæðið er bygt á dauða-degi Cæsars (15. marz 44 f. Kr.), sem er tveim dögum fyrir þenna dag (17.). Af því kvæðið er gaman-kvæði yfir höfuð, að undanteknum vv. 46—54 og 74—79 þá hef jeg ekki skrifað það öðruvísi en mèr datt strax í hug, óbundið og í daglegu máli; þó útlend orð eða talshættir komi fyrir, þá vona jeg það verði fyrirgefið, og tekið tillit til þess anda, sem í kvæðinu er. Goða-nöfnin eru ýmist á grísku eða latínu, optast nær vegna formsins, og munu athugasemdirnar upplýsa slíkt. Viðvíkjandi vv. 84, 87 og 96 get jeg þess að jeg trúi ekki englum nè á engla. Kvæðið heitir „tólf álna“ af því það var ritað á tólf álna lánga pappírslengju, límda á lèrept.

Þá bygðu guðir víðan váng,
vatna-dísin í lækjum glumdi[1];
Neptúnus[2] hreikti á hausi þáng,
heldur geðillur stundum rumdi.

2. Sól-geisla dýrð á Vallands völl
veglega skein í himins ljóma;
fagurt niðuðu fljótin öll,
frost-köldum leyst úr vetrar dróma;
iðaði gullinn axa-sjór
um akur-rein á frjóvu láði,
þegar ýl-geislinn yfir fór,
allt eins og bára rís á gráði.

3. Þá vöktu hetjur sverða-saung,
svartfossar blóðs til jarðar runnu;
augun frá erni um himna gaung
ofan til víga-leiksins brunnu. —
Guðirnir sátu á gullnum stól
að gamni sínu, og brostu í kampinn;
en sigur-gyðjan sveigði hjól —
sveiflaðist bjartur vopna-glampinn.

---

[1]) Fornmenn trúðu því, að guðir og gyðjur (dísir) bygðu hvervetna í klettum, hömrum, fjöllum, skógum, vötnum o. s. frv., og eru þannig upp runnin mörg heiti guðdóma þeirra, t. a. m. Oreades, Hamadryades, Oceanides. [2]) Neptúnus (á lat.; Posídon á grísku) = sjávardrottinn.

4. Svona leið vopna áfram öld; —
efstan komst gleðin þó á tindinn,
þegar að Cæsar skæran skjöld
skók, og kryðsaði upp í vindinn. —
Kaghýddi Galla kappinn hár,
knúði Breta í leirinn niður,
svo að frægð hans um hundrað ár
mun heyrast eins og fugla-kliður.

5. Seinast hann halda saman rèð
sólbjörtum Róma-veldis geimi.
Áður menn höfðu aldrei sèð
annan eins mann í víðum heimi. —
Guðirnir sjálfir gláptu á,
gjörvallir þögðu, og sátu hissa;
Vúlkanus[1] ekki vildi þá
Venusi bjarta á munninn kyssa[2].

6. En þegar veldið hæst var hans,
og heiðursljóminn var sem mestur
þá var búinn þess mikla manns
meinlegur endi' og dauði verstur:

---

[1]) V. á lat., = Hefestus á gr., var guð elds og listilegra smíða v. 15. 38. 39., en haltur, og ljótastur allra guða; hann átti hina fegurstu gyðju, ástar-gyðjuna (Venus á lat., Afrodíta á gr.) sem þó var ekki eins skírlíf og hún var fögur v. 36. — [2] því hann hafði annað að gera þá (að horfa á Cæsar).

að honum Casca[1] í ráði rèð,
og rak hann kuta mitt í gegnum;
þar datt Cæsar og maktin með
myrt og drepin hjá hallarveggnum.

7. Þá mátti í himni heyra grát:
hrinu guðirnir eins og króar;
á því var hvurki lin nè lát:
það líktist því, ef mikið snjóar,
og þjakar fönn á þorranum
með þræsíngs byl og kaldar hríðir:
þá er beljið í börnunum
sem bola-öskur um sumar-tíðir.

8. Eða sem hefðu meyjar mist
mann, sem þær allar sárheitt unnu,
af því hann hefur klappað og kyst
Kristrúnu, Siggu, Raunku, Gunnu:
þá, þegar hann er farinn frá,
fara þær allar senn að hljóða;
ræðu ei heyra manna má,
magnlega tárast kinnin rjóða.

9. Þannig grèt allur guða-her,
grömðust, og rifu á sèr skeggið:
ökuðu gyðjur allar sèr,

---

[1]) Casca rèðst fyrstur á Cæsar.

o'num lærin rann tára-hreggið!
Korn-brennivín og Konjaks-tár
kýldu þeir fast úr messíng-staupum;
ergelsi' og harmur undur-sár
öllum bægði frá gleði-hlaupum.

10. Ei mátti nokkurn gleðja gram
guðlegur ljómi á Ólýmps tindi[1];
ekki Venus í yndis-ham —
öll gleðin varð að tómum vindi:
eins og ef allir Álptnesíngar
ætluðu' að byggja línu-skip:
það yrði tómar umþeinkíngar;
ætli þær læki minna en hrip?

11. „Hvurn fjandann ert' að hnippa í mig“
hrópaði Seifur[2] vonzku af; —.
„jeg þeyti þrumu-fleignum í þig“ —
með þessu olboga-skot hann gaf

---

[1]) Ólýmpus hèldu fornmenn vera bústað guðanna; („verða-t ve þau-vindum skekin-regni slegin-nè snævi drifin;-hverfr um utan-alla vega-skírr skatyrnir-skýjum efri-ok leikr ljóss yfir-ljóma bjarmi. — Þar gamna sèr-guðir sælir-ok yndis njóta-alla daga“ Homer, Odyssea VI 43—46; ísl. pag. 136, v. 22. 23). [2]) Seifur (á gr., á lat. Jupiter, v. 29, 62), faðir manna og guða, æðstur konúngur himinveldisins, þrumuguð; hann rèði þrumum og eldíngum, og sendi þrumufleigana hvítglóandi til jarðar.

Venusi, sem að vildi hugga
voldugan guðinn harmi í;
hann meidd'ana, svo hún fór að snugga;
sorgin varð enn þá meiri' af því.

12. Þá sagði Ares[1] — (það var þó
þrekmeiri guð en ástar-gyðjan):
„Senn þykir mèr nú saunglað nóg;
snáfi nú burtu eymdar-hryðjan!
Manst' ekki, frægi faðir minn!
er fagra jókstú öllum gleði,
og hríðklofnaði hausinn þinn,
svo himininn allur varð í veði!“

13. „Mínerva[2] hljóp úr höfði þèr
hervædd og búin veldis-ljóma[3],
og enginn hefur svanni sèr
slíkan mátt geta meyjar-blóma.
Mínerva enga móður á[4],

---

[1]) Ares (á gr.; Mars á lat.) var guð bardaga og hernaðar (v. 42). [2]) Mínerva (á lat.; Aþena og Pallas Aþena á gr. v. 16, 18, 23, 51.) var gyðja vizku, lista, hygginda og hernaðar; Seifur átti Metis fyrsta konu; en þá var honum spáð að afkvæmi hans með henni mundi verða honum meira; þá átti hann Mínervu við sjálfum sèr, og stökk hún alklædd út úr höfði honum (sbr. Hesiod. Theog. 886 896). Hún hafði ægiskjöldinn dýra (v. 15) sem hún riðlaði með sveitum hetjanna. [3]) Silius Italicus kvað svo: „Aspera pectus Aegide Gorgoneos virgo succincta furores“. [4]) Því kallar Ovidius hana „prolem sine matre creatam“.

máttug þess vegna er hún lengi;
þú mundir henni fæðíng fá,
frægð og óþrotlegt heiðurs gengi".

14. „Þá var hljómur í himnasal,
hljómandi Febuss[1] strengur glumði;
hljómaði foss í dimmum dal,
hljómandi báru-fjöldinn rumdi;
hljómaði blær við háan tind,
hljómandi skulfu guða sæti;
hljómaði Styx[2] við himin-grind,
hljómandi var þá alt af kæti".

15. „Glumdi saung-gyðjum[3] gleði-hljóð,
glymjandi var þá dísa-fjöldin;
glumdu raddir frá goða-þjóð,
glymjandi voru himin-kvöldin;
glumdi vínalda í gyltri skál,
glymjandi kvað í ægiskildi[4];

---

[1]) F. (á gr., og F. Apollón; á lat. Apollo, v. 72); örva guð og guð hörpu og saungs. [2]) Fljót í undirheimum; við það sóru guðirnir: „viti þat vatn Stýgar - er veltr niðr - undirheima til - (sá er eiðr mestr - ok svardagi svarrastr - með sælum guðum)!" (Hom. Od. V 185. 186, ísl. pag. 118. v. 89, og Il. XV 37. 38). [3]) Saung-gyðjurnar (Musae) voru níu, og rèðu vísindum og listum. [4]) Ægiskjöldurinn (v. 13. ath. 1.) var eign Seifs, hafði Hefestus gefið honum hann (Hom. Il. XV 309), en aðrir guðir höfðu hann líka. Hann var óttalegur og ljómandi af gulli, með Gorgonshausnum á,

glumdi Vúlkanuss[1] gneista-bál,
glymja Cerberus[2] feginn vildi“.

16. „Því að Aþena[3] fólkumfræg
framgengin var af höfði þínu,
orrustu-kæn og undur-slæg,
óhrœdd og föst í hjarta sínu.
Sú er nú liðin sælu-tíð;
sjóla himins má ekkert gleðja;
en eintóm sút og sorgin stríð
að sálum þeirra nú vill steðja“.

17. „En þú, sem almáttugur ert
og alt framkvæma mátt í heimi,
náðugur, faðir, nú þú sèrt,
niðdimma rektu sorg úr geimi!
Láttu nú aptur liðna stund
líða að fögrum guða sölum;

sem Perseus hafði höggvið; allir sem á hann litu, urðu að steini. Ægiskjöldinn bar Mínerva, þá er hún riðlaði fylkíngum kappanna, því enginn stóðst ógn hans, er hann var skakinn: „Baug darra dís-dýði frægan, - elli ómáðum - ægiskildi - sveiflaði svipmikil - salgarðs freyja - uppheims undrsjón - ódauðligri. - Lèku hundrað - í lopti hreifðir - of hlíf hvelda - hengiskúfar - eldrauðum orpnir - ægis ljóma - var verðr hverr - hundrað tarfa“ (Il. II 447; einnig V 738).

[1]) v. 5. ath. 1. [2]) Cerberus var þríhöfðaður hundur, sem varði hliðið að myrkheimi; Herkúles sókti hann upp til jarðar, en af froðunni úr kjapti hans spratt upp eiturjurt. [3]) v. 13.

og hryggva aptur gleddu grund,
gæddu með sælu blóm í dölum!“

18. „Láttu að nýju mæra mey,
máttugi fadir, af þèr fæðast!
Hún Pallas[1] verri verður ei,
vegsemð og fjöri mun hún klæðast.
Vèr vitum allir, það sem þú,
Þrúðvaldur[2], vilt, er gott og mikið“. —
Þannig endaði þula sú;
hann þurkaði af sèr sveita-rykið.

19. Annsaði Seifur[3] aptur þá —
(otaði þúngum veldis-brúnum,
og tæmdi staup, er stóð þar hjá
með stètt og börmum gulli búnum):
Allt, sem þú segir, Ares[4] minn,
er ærið skynsamlegt og fagurt;
en tíma hefur sèrhvað sinn:
sumt verður feitt, og annað magurt“.

20. „Þannig grundvallað var það víst,
er væna mey jeg áður fæddi[5]:
frá byrjun hafði eg hana hýst,
höfuð mitt slíkur þúngi mæddi[6],

---

[1]) v. 13. ath. 2. [2]) Þrúðvaldur, ɔ: hinn afar-sterki = Seifur. [3]) v. 11. ath. 2. [4]) v. 12. ath. 1. [5]) ɔ: Mínervu. [6]) sbr. v. 13. ath. 2.

Allt eins og kona: eins jeg hlýt
með ófætt jóð í höfði að gánga.
Á sínum tíma, horsk og hvít,
úr höfði mèr mun meyja spránga“.

21. „Eptir þrjú hundruð þúsund ár,
(það er að segja, á hunda-tölu,
og annara dýra aldur hár[1]
er einnig í þeirri reiknings völu)—
en eptir manna mærri list,
ef mjög þú stirður ert að skilja:
þá verður átján öldum fyrst
alheiminn Kronus[2] fast að hylja“;

22. Áður en get jeg aptur mey;
því undur lángan þarf jeg tíma;
og hægðar-leikur er það ei,
útaf því verður falleg ríma.
En eptir þessa tölta tíð
tignarlegt sezt jeg nið'rá sæti,

---

[1]) Sum smádýr lifa einúngis einn dag, og sum ekki svo leingi, svo með þeim reikníngi má takast að láta 1800 mannaár verða 300,000 ár í þessu tilliti. [2]) Kronus (á gr., á lat. Saturnus) var faðir Seifs. Kronus táknaði tímann, og því er hèr svo til orða tekið, að hann verði að hylja alheiminn með átján öldum (átján sinnum), eins og blæju, eða að hann sveipi heiminn með hinum átján umbreytanlegu blæjum átján alda, það er: að hann láti átján aldir líða fyrst.

og þá mun meyja, mær og blíð
úr mínum stökkva haus með kæti.

23. „Tveim dögum eptir dauða-dag
dýrðlegs Cæsars skal meyjan fæðast;
en þó með nokkuð annað slag,
en Aþena fyr nam lífi glæðast:
þá verður öldin orðin ný,
og aðrir siðir manna í heimi;
takið þèr allir eptir því,
og engi þessu heiti gleymi".

24. Svo mælti himna sjóli þá;
svart-dimmum brúnum hreifa náði,
gnötraði hátt og lágt í láði,
ljós-salir skulfu eins og strá.
Mildíngur himna og manna faðir
magnremmdan sór þann veldis-eið;
starandi heyrðu stjörnu-raðir,
storðar háfjöll og sundin breið[1].

25 Þegar svo hreifir brúna bogum
buðlúngur guða heit sitt við,
stendur það kyrt, þótt stríðum logum
stynji gjörþjakað foldar svið.
Aldregi má það aptur kallast,
uppfyllast skal, en gleymast ei;

[1]) Hom. Il. I 528.

aldregi bifast, aldrei hallast,
alt þó að mót því kveði *Nei*[1].

26, Gekk síðan sinna sala til
sèr hver drottinn á Ólýmps tindi;
blundaði vært í vonar-yl,
værðin skipti um sorg með yndi[2].
Þannig lágu í átján aldir
upphimins guðir svefns á beð;
voru draum-blæju dimmri faldir
dýrðlegri' en nokkur fái sèð.

27. Vel kynni þetta að virðast lángt,
væri það mælt á lífsins kvarða;
en það er rètt, og ekki rángt,
reiknað á mæli goða jarða:
fjórum stikaði fetum í
fyrrum Neptúnus[3] heim frá bænum
þar Trója tekur hátt við ský,
til Ægæ, sem að liggja í sænum[4].

28. Svona stórvaxnir herrar heims
held jeg allt geri í því stóra[5]:
þeir jafna við hnetti himingeims,
þar halir jafna rètt við fjóra;

[1]) Hom. Il. I 525—527. [2]) Hom Il. I 606. [3]) v. 1. ath 2. [4]) Hom. Il. XIII 20. Ægæ (Ege, Ægisborg) var bústaður Neptúns (Posídons), og þar átti hann ljómandi og eilífar hallir í sjávardjúpinu. [5]) ɔ: en gros.

þeir hvíla sig í hundrað ár,
er hvílumst vèr um eina stundu,
og sèr hvert þeirra staup er sár,
sem að dagsláttar þekur grundu[1].

29. Sem sagt, þeir sváfu, og sváfu vel. —
Seifur þá loksins vakna náði;
hvort ekki væri hríð eða jel
um himins-ljórann út hann gáði;
veðrið var gott; en klukkan kvað,
krýnd með grásilfri og gulli lokkuð;
Júpíter lagði eyrað að:
það var *átján hundruð tuttug' og nokkuð.*

30. Mèr þykir orðið á-liðið"
öðlíngur himna sagði stúrinn;
svo dró hann ísur eptir dúrinn
eptir syfjaðra manna sið.
Upp úr bælinu brölti þá,
brá á sig rauðu morgun-skónum;

[1]) Hèr við má bera saman Hom. Il. V 744, þar sam Aþena setur á höfuð sèr svo stóran hjálm, að hundrað menn geta haft hann á höfði sèr allir í einu; V 770, þar sem hestar Heru leggja eins mikið svæði undir sig í hverju stökki og maður eygir yfir, sem situr á háum fjallstindi; V 860 og XIV 148, þar sem Ares og Posídon öskra hver um sig eins og níu eðatíu þúsund menn; XXI 407, þar sem Ares fellur, og leggur undir sig sjö plóglönd (plógland er jafn mikið svæði, og plægja má á einum degi; en sumir láta það vera 100 fet).

tók síðan tóbaks-pípu blá,
tyrfna, með þremur gyltum ljónum.

31. Gekk til Hermesar[1] guðinn hár
og guðinn vakti sendi-fara:
„Farðu á fætur, uppheims ár[2],
á þig nú skaltu görmum snara;
vektu nú sèrhvern svefni af,
segðu guðum á þíng að stefna;
löndin það viti og ljósblátt haf,
loforðið mitt jeg nú mun efna“.

32. Svo mælti hann; en sveif á þíng
sólfögur uppheims-guða fjöldin;
snillileg, dýrðleg sameiníng,
sem sellíngar í fjöru á kvöldin.
En mjög var annar móðurinn,
mikið var orðin um-breytt öldin,
eins og að fyrir sagði um sinn
Seifur með gömlu spádómsvöldin.

33. Þar sat Hera[3] á háum stól,
hæst móðins klædd, á bláum kjól

---

[1]) Hermes (á gr., á lat. Mercurius) var sendiboði guðanna. [2]) ár (á fornm. árr) þýðir þjónn, og lítur hèr til þeirrar þjónustu Hermesar, að hann var sendi-guð. [3]) Hera (á gr. Juno á lat.), æðst gyðjanna, gipt Seifi.

úr Paramattas[1] alveg nýju,
alinin keypt á fjörutíu,
(jeg man ekki, hvar það unnið var:
í Englandi, eða í Kandahar[2]) —
rigtignok prúttuðum með prís;
praktug var fögur uppheims dís.

34. Þenna kostbæra hafði kjól
kóngurinn Seifur henni gefið —
fitjaði nokkuð upp á nefið,
og nuddaði sèr af himni á ról.
Hann sá þá opna Bjeríngs búð,
brá sèr þar inn, og dúkinn keypti;
en áður hann færi út með skrúð,
óhemju stóran dramm hann gleypti.

35. Svo var hún gjörvöll smurð í merg[3];
sólgljáandi hún leit við veðri,
með fagra skó úr frönsku leðri
forsólaða af Billenberg;
með eyrna-hríngi í eyrunum
af Árna silfur-smiði gerða.
og hjartarskinns-hanska á höndunum,
hèr um bil þriggja marka verða.

---

[1] einkonar dúkur, sem kvennfólk hefur í kjóla. [2]) Staður í Persíu. [3]) Hmsmyrsli (pomade) eru gerð úr dýramerg, t. a. m. nauta-merg, og stendur það framan á glösunum, sem þau eru seld í (moëlle de boeuf).

36. Venus sat fögur henni hjá,
í hvítum kjól úr atlask-silki,
sýndist hún góð og saklaus þá,
sem snjóhvít lilja á grænum stilki;
en eins og hún var yndis-fögur,
eins var hún ljúf á dorg og kák;
af henni gengu ótal sögur,
hún átti barn með hverjum strák.

37. Í stuttu máli: sèrhvur sat
svona á þíngi búin gyðja,
eins og hvur best sig búið gat;
að blína á þær var lángvinn iðja.
En karlguðirnir þreyðu þar
hjá þessum ódauðlegu meyjum,
sumir á frökkum, sumir á treyjum,
sumir nöguðu fíngurnar.

38. Fyrstan þá telja frægan skal
fagurra gripa lista-smiðinn,
sem var eins ljótur og hann var iðinn,
og bjó til margan bjartan fal;
hann var búinn í bláa treyju
með blaunkum hnöppum nið'rúr gegn;
hún þoldi bæði þurk og regn,
þrædd var hún út' á Garðars-eyju.

39. Þetta Vúlkanus frægi var;

til vinstri handar sat hann gamla
Neptún, sem kunni um sjó að svamla,
og snuðraði' upp allar grynníngar.
Hann var klæddur í kalmúks-treyju,
kaffebrúna, og tommu á þykkt;
hún var rekin í Akur-eyju,
og af henni fýla og þara-lykt.

40. Eitt sinn, þá Neptún áður fór
í Akur-ey í beitifjöru,
þá fann hann stóra fjárhúss-hjöru,
forkur var úr því gerður stór[1].
Það var einmitt í sama sinn
að sjótreyjan var líka rekin;
bara í hnè var báran stinn,
brátt var so mussan krækt og tekin.

41. Hvurr mundi hafa hugsað það,
himneska dýrð að treyjan fengi —
simpel lóðs-treyja, eptir að
út-anzkotuð var hún svo lengi?
Hún hefur fallið fyrir borð
af fullum manni á póst-duggunni;
en henni heilagt guðdóms orð
heiður eilífann veita kunni.

---

[1]) Neptúnus hafði þrífork (tridens), sem hann rótaði saman með skýjunum og ruddi upp öllum byljum og bárum, þogar hann vildi æsa höfuðskepnurnar.

42. Svona var Neptún; hans við hlið
hríðefldur Ares standa náði;
hann var á frakka franskt með snið,
en faldurinn neðri dáltið fláði.
Hèlt á pístólu hendi í,
hafði lokaðan kníf í vasa;
og gotu stundum gaf hann því
hvað gyðjurnar væri um sig að masa.

43. Óþarfi að lýsa er nú meir
upphimins guða fögrum klæðum; —
bráðspentir allir biðu þeir
að buðlúngur sjálfur hreifði ræðum. —
Hann sat þar grœnum slobrokk á,
svarðreipi bundið um sig miðjan;
úr ramri pípu rèyknum blá
rendi hann sterkt, sem vestan-hryðjan.

44. Fyrir heims drottinn framan stóð
flaska með dönsku brennivíni,
keypt á Mathiesens mætri lóð,
sem mildur guð með heiðri krýni;
hennar við síðu hívert[1] var
heltur fullur af torfu-blóði[2]. —
Nú vætti Seifur varirnar,
varpaði síðan þúngum móði:

---

[1]) Sama sem staup. [2]) ɔ: torf-brennt brennivín.

45. „Setist nú allir sjólar hèr
samtaka nið'rá guða-stóla;
enginn má hreifa ögn á sèr,
og ekki nokkuð á sèr bóla. —
Fæðíngar-hríðir fer jeg brátt
'frekar að taka', og heit að efna;
dynur í mínum hausi hátt,
og hærra' en rètt jeg megi nefna."

46. „Takið nú allir eptir því,
sem inni jeg af hjartans grunni:
uppi við niðdimm norðurský
niður heyrist, sem hljóð frá unni:
heims-ásinn snýst þar hjörum á,
hverfast um geiminn segul-vendir;
kveður við hamra kólgan blá;
kallaður er þar heimsins endir".

47. „Þar nístir kuldi norður-skaut
ná-greipum hvítum ferlegs dauða;
vefst yfir himin vetrar-braut,
varla má blómgvast foldin auða;
blástjarnan ei þar baðast fær
í báru-laug um nætur stundir[1];

---

[1]) Blástjarnan (Wega) er ein fegurst stjarna hèr; hún gengur aldrei undir á norðurhluta hnattarins. Sama segir Homer um bjarnarmerkið: „ok er einn svo stjarna - at hann aldreigi - laugast lætr - í lagar straumi.", Od. V 275. Il. XVIII 489.

í jarðar-iðrum jötun hlær
járn-efldum gný, svo drynur undir".

48. „Hvítfalda jöklar hátt við ský
helköldum vetrar undurljóma;
en foldar undirdjúpum í
eldurinn geysa vill úr dróma.
Voðaleg nótt um vetrardag
veltist um stóran himin-boga,[1]
þó sèr hvert eptir sólarlag
síurnar Múspells[2] kasti loga.

49. „Þar heyrist sjaldan gleði-hljóð,
hvervetna ríkir þögnin leiða,
nema ef foss í feikna- móð'
frambrýzt að sjávar-álnum breiða;
þar er ei fagurt fugla-kvak,
þó fögur sè náttúran á kvöldin;
ógurlegt vekja björgin brak,
og blossi gýs um himintjöldin".

50. „Óttaleg þögn, og ekkert hljóð
er þar um svæði', og enginn hljómur;

---

[1]) „Humentes iam noctis equos, lethaeaque somnus-frena regens, tacito volvebat sidera cursu", Claudian. [2]) Síur Múspells eru gneistar, er flugu úr Múspellsheimi. Af einum slíkum gneista (síu) gerðu goðin (norrænu) sólina (Sn. E. pag. 7), og því eru Síur Múspells sama sem stjörnur, eins og í Od. XII 150 (ísl.): „Mundi þriðjúngr - lifa myrkföru - ok síur Múspells - síga at lopti".

þar eru aldrei leikin ljóð,
landvætta er þar helgidómur:
þar kveða gumnar Garðars ey
ginnhvítum jökultindum rísa;
þó er nú búinn mærri mey
móðurstaður á landi ísa".

51. „Lengi var hýrt á Hellas-fold[1],
hörpur frá Parnas-gljúfrum[2] dundu,
og Grikkja-lands á mærri mold
mærðar-dísirnar strenginn undu;
Aþenu veitti' eg þeirri þjóð,
þúngum að stjórna sverða-glaumi;
lángaði hana í bana-blóð,
og brand að rjóða í unda straumi"[3].

52. En þessi þjóð á ísa ey
ekki af stríðum lengur kætist;
hún þarf því enga mækis-mey[4]
sem morði ann, og aldrei grætist[5];

---

[1]) ɔ: Grikklandi. [2]) Parnassus var fjall á Grikklandi; þar áttu saung-gyðjurnar (mærðar-dísirnar) heima. Parnassus og Helíkon (fjall sama staðar) eru kend við þær og Apolló (sbr. v. 73). [3]) v. 13. ath. 2. [4]) ɔ: sverða-mey, hernaðar-gyðju (Aþenu). [5]) Aþena var allt af hrein mær, og eptir eðli sínu var hún ókunnug og óviðkomandi öllum blíðum og viðkvæmum tilfinníngum kvenna.

hún annað þarf, sem örva má
til unaðarins í lífsins öldu,
leiðindin sem að lætur frá
líða brjóstinu manna köldu".

53. „Núna er Hellas-dróttin[1] dauð,
döpur og grátin fjöllin standa;
musterin eru eydd og auð —
enginn hins forna minnist anda.
Blandaðar þjóðir búa nú,
og bleyður einar á fögrum láðum,
þar sem vèr áður áttum bú,
og ilm af helgum blótum þáðum"[2].

54. „Því skal hin gamla Garðars ey
gott af loforði mínu hljóta;
þiggi hún af oss mæra mey
sem megi leiðindin niður brjóta!
Hennar sè hún, og hennar dýrð
hljómandi svífi um allan geiminn,
glóandi sólar-geislum skírð,
glápandi láti undrast heiminn".

[1]) ɔ: Forn-Grikkir (drótt = þjóð). [2]) þeir sem nú búa á Grikklandi (Ný-Grikkir), eru raunar afkomendur hinna frægu Forn-Grikkja, en að mestu leyti ómenntaðir menn og lítilsigldir, af því Tyrkir hafa svo lengi kúgað þá og haldið þeim þeim í ánauðar-oki, sem þeir ekki eru enn búnir að taka sig aptur eptir, þó þeir nú eigi að heita sjálfum sèr ráðandi.

55. Svo mælti guða sjólinn hár;
settist aptur á stólinn niður;
gyðjurnar feldu gullin-tár[1],
grömdust, og þótti fremur miður,
að þær ei gátu eignast slíkt
afkvæmi, sem þær gæfi jörðu,
af gleði auðugt og gáfum ríkt;
grátnar þær þá sig utan börðu.

56. Gullsalir skærir glumdu við,
gjörvallur dundi himinbogi,
sem af fegursta fugla-klið;
fagrahvels brosti reginlogi;
á kolsvartri flöjels-treyju og kjól
karmosínrauðum, nokkuð feimin,
sem ný-upprunnin sumar-sól
*Sigríður fæðast nam í heiminn.*

57. Af uppheims-kóngsins eiginn haus
út gekk hún hèr að norðurdölum
hátignarleg og hræsnislaus,
hissa varð allt í guða sölum.
Fuglarnir sjálfir flugu í kríng,
fóru að bulla á manna túngu;
dansaði allt í dýrðarhríng,
dúfur, krummar og hænsni súngu.

---

[1]) Sbr. Snorra Eddu pag. 21: „en Freyja grætr eptir, en tár hennar eru gull rautt.“

58. Brast í upphimins bogum þá,
brotnuðu fjöll og niður hrundu;
kómetur liðu lopti á,
lángfextar Ránar meyjar dundu;
sínum stjörnurnar týndu stað,
stikuðu ránga vegi um geiminn;
það var náttúrlegt, af því að
eitt sinn kom *Sigríður* í heiminn.

59. Í Jötun-heimum tröll á tind
teygðu fram hálsa til að góna;
gægðist um háa himin-grind
herfylkíng mögnuð ótal dóna;
en engum slíkum inn var hleypt,
óhreinn þar enginn koma mátti;
allt var það öðruvísi steypt,
ekki það helga spillast átti,

60. Hundtyrkinn skygndist Haemus[1] frá,
hvað þetta mundi eiga að þýða;
dýrðina hèlt hann dómsdags þá
dregna vera' upp á spjaldið tíða[2].—
Kínverjinn hèlt,að karskur þar

---

[1]) Haemus (nú Balkan) er fjallgarður á Tyrklandi.
[2]) Tyrkir trúa kenníngu Múhammets, og eru þar miklir lærdómar um annað líf og upprisu dauðra; Paradís á þar að vera sælustaður allra líkamlegra glaðværða, og svarteygar meyjar veita hinum sælu mönnum unað og yndi.

Konfúsíus væri aptur genginn[1],
og kom með fagrar fórnirnar
að friðþægja sig við gamla drenginn.

61\. Gjörvallur jarðar-heimsins her
heilum ei á sèr mátti taka;
akaði öllum saman sèr,
svo í jörðunni tók að braka.
Rumskuðu í gröfum liðin lík
lágt nið'rí jarðar myrku djúpi
óttaleg viður undur slík,
af sèr köstuðu morknum hjúpi.

62\. Þannig fæddist í heiminn hèr
af höfði Júpíters þessi meyja. —
En hlustið nú allar þjóðir, þèr,
en þú samt allra helzt, Garðars eyja!
Því ekki búið þarmeð er;
það skeði enn þá lángtum meira
sem að saung-gyðjan sagði mèr;
segja mun jeg, en þú skalt heyra.

63\. Nú reis upp Seifur bjart við borð,
bragðaði um leið á fullu staupi; —

---

[1]) Konfúsíus var uppi eitthvað 500 árum fyrir Krist, og var einn af hinum ágætustu mönnum í Kínaveldi; hann bætti mjög trú og siðferði Kínverja, og var dýrkaður eins og guð, þegar hann var dáinn.

kvað síðan máttugt uppheims orð,
ekki var það samt laust frá raupi;
allir hlýddu með andakt á,
eins og prèdikun væri haldin:
ræskti sig himna hilmir þá,
og hendinni strauk um slobrokks-faldinn:

64. „Nú hef jeg uppfyllt heitið mitt,
harmurinn fyrr sem af mèr knúði;
mörg mun nú verða stundin stytt,
styttri en nokkur fyrri trúði.
Nú fæðist gleði á Garðars ey,
gjörvöll mun kætast hennar þjóðin;
farðu nú hèðan, mæra mey,
menn skaltú gleðja jafnt sem fljóðin“.

65. „Allt það gott, sem jeg yfir ræð,
eiga nú skaltu vel og lengi;
jeg sendi þig af himna hæð
hátignarlega á jarðar-engi. —
Hverr sá sem fæðist heiminn í,
hann er sendur af guðahendi;
en undra munur er á því
hvern ofan jeg til jarðar sendi.“

66. „Sumum einúngis fátt jeg fæ,
fátt líka heimta' eg af þeim aptur; —
en yfir þig legg jeg blíðu blæ,

bjartur þèr aukist dýrdar-kraptur;
og jeg, sem allra örlög veg,
eilíf fyrir þig set nú lögin:
aukist þèr mærðin margfaldleg,
mögnuð með saung og raddar-slögin!“

67. „*Fimtánda Martsí* frægur dó
fylkir Cæsar á Róma-láði;
(frægðin hans lifir lofsæl þó,
lífið hún aldrei missa náði);
þá skulum vèr í sorgum sitja,
svartir, í harma klæddir lín;
unaðs og gleði ekki vitja,
af ergelsi drekka brennivín.“

68. „*Sextánda Marz* vèr sofum út
sortann og rús frá fyrra kvöldi;
toppfyllum aptur tæmdan stút,
það töltir híngað mesti fjöldi. —
Svona vèr þenna sitjum dag,
svona ómtrent á milli vita,
þartil að svífur sólarlag,
sèr hverjum mun þá rúmið hita.“

69. „*Seytjánda Marz* vèr vöknum vel,
veltumst fjörugir upp úr rúmi:
en sèrhvern jeg forlögunum fel
í fylliríis dimmu húmi!

Ei skulu lengur guðir grætast,
gleðin á sèrhvers enni skín,
vèr skulum fornum krapti kætast,
af kátínu drekka brennivín!“

70. „Dæmalaus þjóð er Danskurinn
drykkinn þenna að hafa bruggað,
þó af honum hafi sumir snuggað,
af því þá skorti skilnínginn.
Sífelt er lífið sorg og gleði,
samt hann í báðum hressíng lèði;
því skal um þenna dýrðar-dag
drekka með allra mesta slag!“

71. Svo mælti himna sjólinn hár;
sèrhver guðanna djúpt sig hneigði,
og sagði', um leið og svírann beygði:
„Amen, Amen um ótal ár!“—
Guðirnir síðan gengu' í skrokk
á góðri mey, sem dýr í bræðíng:
þeir vildu af' henni eignast lokk
til endurminníngar um þá fæðíng.

72. Loksins, er þetta liðið var,
og lukku-óskir búnar allar,
þá gengu burtu gyðjurnar
úr glæstum sölum Ólymps[1] hallar;

---

[1]) v. 10. ath. 1.

en hinir í sinn gengu garð;
á gólfi eptir mey nam standa,
og Febus Apollon[1] eptir varð
með yndið forna gullinbanda.

73. Hèlt hann á gígju' í höndum sèr,
á Helíkon sem fyrrum glumdi,
svo dimmt í gljúfrum dökkum rumdi —
dauflegt og þögult þar nú er.
Hljómfagra stilti' hann hörpu-strengi,
hvellara' en skýra megi frá;
hljóðið um salinn lagði lengi
um leið og hann mælti ræðu þá:

74. „Mèr veitti himna sjóli saung,
sætleika máls og fagra hljóma;
æfin þeim verður aldrei laung
sem unna mèr og listum róma. —
Föður jeg bið á himins hæð
um heill og gæfu manna sonum,
og að hann lukku opni æð,
og öllum láti' að þeirra vonum".

75. „Kveð jeg því núna hilmi há
til heilla þèr um lífsins daga;
að allt þèr megi unun ljá
og ekkert verða þèr til baga.

[1]) Hann er guð saungs og ljóða. (sbr. v. 51. ath. 2.).

Deyi þèr sorg, en dafni gleði,
dragi þèr yndi svefn á brún!
Fáirðu sèrhvurn blund á beði
blíðan á mjúkum værðar-dún"!

76. „Aldregi sól í ægi renni
yfir þèr, mey, í sorgar-hug!
Aldrei þèr lángvinn bræði brenni,
sem brjóti niður þinn krapt og dug!
Aldrei bakmælgin á þèr vinni,
alla sem nagar sárri tönn!
Aldrei þig heimsins gæzka ginni
frá götu dygðar eina spönn"!

77. „Alltaf þèr hlæji sól í heiði,
með heilla brosi á hverri stund!
Alltaf fegurðar ljós þig leiði,
þó líði myrkur yfir grund!
Alltaf þín lukku-stjarna standi
stöðug og kyr, þó geysi hríð!
Alltaf þú forðist öllu grandi,
auðnan þèr verði þæg og blíð"!

78. „Sèr hverr, sem þig að þekkja náir,
þína mannkosti kannist við!
Honum þú alla unun fáir,
allstaðar jafnt um foldar svið!—
Árlega skal þèr einhverr hljóma

öflugast lof með saungva-lag,
með undra-hrós og æsta róma,
á þinn sannhelga gebúrtsdag“!

79. „Taktu nú hèr við hörpu minni,
hljóðskæran þiggðu gullinstreng!
Sèr hvað gleddú með saunglist þinni:
svanna jafnt eins og hvurn einn dreng!
Þínum hún undir hreifist höndum
með hljómnum, sem jeg fyrri sló!
Með ljóða-saung og lögum vöndum
lífið þitt himna drottinn bjó“!

80. Henni þá guðinn hörpu fèkk;
hvarf síðan burt sem örn í geiminn;
en engla fjöldi að fljóði gekk,
og flutt'ana á vængjum nið'rí heiminn.
Nötraði gömul Garðars ey,
ginnhvítir skulfu jökultindar,
þegar til jarðar mæra mey
magnaðir settu himins vindar.

* * *

81. Í nafni guðsins, sem gaf þèr saung,
og gæddi þig með fögrum lögum,
óskum vèr nú, að líði laung
lífs-stundin þèr með gleði-dögum!
Í nafni guðsins, sem þig gat,

Gratsíurnar[1] þèr fegurð rètti,
og flytji þig upp á Ararat,
örkina þar sem flóðið setti.

82. Því eins og örkin innihèlt
alls konar dýr og frelsið manna:
eins er þitt lífið fest og fellt
með fullkomlegleikum saungnótnanna:
það innilykur allan her
alls konar *dúra, molla'* og *tóna*[2];
og í því innifalin er
eymdar-lækníngin hryggra dóna.

83. Apollós þannig eptir boði,
í umboði sjálfs hans guðdóms-orðs,
bið jeg, að frá þèr bægist voði,
og böl og dimma gleði-morðs!
Á fæðíngar-degi þessum þínum
þennan hljótirðu lukku-brag
af allri sál og anda mínum,
með eitthvert mèr ókunnugt lag!

84. Þegar þú giptist, þúsund prestar
þreytist á ræðum upp' í stól,
og tali meir' en hundrað hestar,
með hvíta kraga' og svartan kjól!

---

[1]) ɔ: þokka-gyðjurnar, sem veittu mönnum fegurð í framgaungu og þvíumlíkt. [2]) dúrar og mollar eru millumnótur á saung-stiganum.

Tólf hundruð englar tóni Amen
með týndu lagi' á grallarann;
og ekta lúterskur[1] erki-flamen[2]
innleiði þig í hjóna rann!

85. Frakka keisari sjálfur sendi
sex hundruð til þín gæru-skinn;
og hundrað gylta girnis-vendi,
gítarinn á að spenna þinn;
en Nikulás þèr nótur gefi,
og námur gulls við Úral-tind,
og saman-bundinn sóbl úr sefi
frá Svarta-hafsins djúpu lind!

86. Hundrað þèr sendi sálma-bækur
sannhelgur páfi' í Rómaborg,
og sextán þúsund silki-brækur
samlitar brúnum kaffekorg;
það má sauma' úr því marga kjóla,
ef miðar niður sá sem kann; —
hafðu þá svo á hátíð jóla
og hrínglandi gerðu sèrhvern mann!

87. Í hvert sinn, er þarftú streng að stemma,
og stilla nótu' á gítars háls:

---

[1]) en í guðs nafni ekki katólskur. [2]) Flamen er prestur (á lat.).

ei sjálf þú tappann átt að klemma,
svo yndið ei spillist saungva máls:
tuttugu englar tappa snúi,
og tryllist allir við þá raun;
þá tekur annars leti og lúi,
þeir leiðast til að blása' í kaun.

88. Kóngurinn sjálfur Gorms á grundu
gefi þèr jörð í Mosfells sveit;
bjóði þèr svo úr blíðri mundu
bola og kú og sauð og geit!
Tyrkja-Soldán þèr trippi gefi,
sem trítli skjótt og vakurt sè,
og tali manna mál í stefi,
og meira kunni' en A B C!

89. Kammerráðin þèr kjúkur veiti,
og konúnglegan þèr gjaldi skatt;
gefi þèr bæði brauð og hveiti,
brennivínsdramm og karlmannshatt;
og þar við eins árs inntekt bæti
af einhverrar sýslu lausafè;
hefji þig upp í heiðurs-sæti —
háverðskulduð þín dýrð það sè!

90. Saungfuglarnir um sumarkvöldin
*Sigríðar* blandi nafni í hljóm,
hátt svo við kveði himin-tjöldin

hvellum og skærum gleði-óm!
Og Ægir nýjar nótur læri,
nölðri ei gamalt skerja-lag,
um þig hann klettum kvæði færi,
og kumri það bæði nótt og dag!

91. Og þó það verði aldrei siður,
og ekki kannske þurfi við,
að tóna: *Sigríður sè með yður!*
samt held jeg það ei spilti frið. —
Það verður nú að vera svona;
það vantar margt í þessum heim!
En vertu bara kröptug kona,
og karlinn í þínu hjarta geym!

92. Alltáf að þínu berist búi
beinhákall, kjöt og saltað smèr;
allt vinnufólkið á þig trúi,
og alltaf kappkosti að líkjast þèr.
Og ef jeg kann að koma þar,
þá kúffyltu á mèr granirnar.

93. Nú gefurð' okkur öllum kökur
á þinn ljómandi gebúrtsdag,
sjálf ertu' af góðri gleði vökur
og glymja lætur saungva-brag
með þeim hljómandi svana-saung,
svífandi um þín raddar-gaung!

94. Því verðum vèr að þakka líka
þèr, sem nú öllum gleði býr;
þú ert sú pragtugasta píka,
prýðilegri en tígris-dýr!
Páfuglarnir þitt prúða nafn
penti með fagurt lita-safn!

95. Blindfullur Óðinn bögur semji,
belji um alla jörð þitt lof;
og svo sig allan utan lemji
eins og lú-barið nauta-krof!
Niflúngur trú' jeg nærist sá
nauts-hausa-súpu og hákall á.

96. Höfuð-englarnir um þig sýngi
óðfagurt hrós og dýrðar-prís
á ógnar stórum arfa-bíngi,
svo endurkveði Paradís;
um þig frumkveði fögur ljóð
fagurstæltum af gáfna sjóð!

97. Til þín gjörvallur safnist seimur,
Snælands sem elur jökul-fold. —
Það bezta, sem að hefur heimur
hylst optast lágt við dökkva mold,
en það er öllum þekkast þó:
það er ánægja' og hugar-ró.

98. Þenna þèr auðinn voldug veiti
vegsemdar-dísin, gæfan blíð!
Allstaðar sjálf hún að þèr leiti,
og alla sè þèr nærri tíð!
Aldregi þèr hún fari frá,
fullnóg þú átt af öllu þá!

99. Nú verður penna niður stúngið,
nú er hans endað vinnu-stand;
aldrei var fyr um aldir súngið
annað eins kvæði hèr um land
með nístum hljóðum og níðsterkt lag
á nokkurrar stúlku gebúrtsdag.

100. Og þó að hljóð að endíng deyi,
sem allt í þessum vorum heim,
þá mun bergmálið enda eigi,
en alltaf lifa' í himna geim;
svo að vèr heyrum hljóma þar:
*hrós um Sigríði kveðið var.*

---

## UM HAUST.

1. Sýngur lóa suð'r í mó
sætt um dáin blóm —
alltaf er saungurinn sami,
með sætum fugla-róm.

2. Himin-blíð eru hljóðin þín,
heiðar-fuglinn minn!
hlusta jeg hljóður á þig,
og hverfa má ei inn.

September. 1853.

# HRAFNINN HANS NÓA.

1. Fyrrum í syndaflóðsins tíð,
þá fölnaði blóm og rósin blíð:
Nói sat einn í sinni örk,
ekkert var þurt um víða mörk;
leiddist kallinum loksins þá,
lángaði af heimi spurn að fá.

5. Hann beiddi dýr og fugla-fjöld
að fara á njósn um skýja-tjöld;
en enginn vildi verða til
víðan að kanna flóðsins hyl;
loks gaf sig út einn úfinn hrafn,
með ógreitt hár og fjaðra-safn.

3. Hann var sá fyrsti heimi í,
sem hafði þor að byrja á því
að gægjast, og að njósna nett,
og nefið setja á alla rètt;
en síðan hefur þetta þor
þróast og dafnað meðal vor.

4. Þèr ótal krummar þessa heims,
þèttir sem stjörnur himna geims,
þèr, sem annara eltið líf,
yður mun loksins vanta hlíf:

þèr munuð sjálfir á sinni tíð
sálberir standa í lífsins hríð.

5. Og þeir, sem yður út af örk
útsenda fram á lífsins mörk,
þeir munu tómir tómum við
taka með lítið þakklætið;
forvitnis-krummum fjaðrir af
flettir sá, sem þeim vitið gaf.

Ágúst 1855.

---

## ÆSKAN.

---

1. Man jeg það, er fyrst á fold
fríðu sá jeg björgin rísa
hrein og blá á hauðri ísa —
ó þú ljúfa móður-mold!
Horfði eg opt á háan tind,
himinskær er sólarljómi
krýndi gylltu geisla-blómi
hátt í daggar ljósri lind!

2. Úngur stóð jeg úti þá,
eins og væri mig að dreyma
um ókunnuga unaðs-heima
uppi þar við björgin blá. —
Móti sólu hlíðin hló;
hóf sig tindur bjartur yfir,
þángað sem að ljóminn lifir,
sem að gleður grund og sjó.

3. Kominn vildi jeg vera þar,
vagga mèr á ljóssins öldum,
hátt und björtum himintjöldum;
það min hæðsta hugsun var!
Allan hèlt jeg unaðs-geim
uppi þar á tindum búa;

en jeg mátti ekki trúa.
að lægi grjót á gnýpum þeim.

4. Man jeg blíða blóma fjöld
brjótast fram úr klaka-dróma,
og reyna sig við sólar ljóma
morgun jafnt sem mærust kvöld;
þegar döggin demantskær
dýrum hló í geisladraumi,
vorgolunnar vögguð straumi!
hversu var hún hrein og tær!

5. Hugsaði jeg, að heimur það
hreinn og undur lítill væri,
þar sem daggar dropinn skæri
átti rúm við blóma-blað!
„Sæll ertú, er sælan bjó
sætan draum á rósabeði!
Víst þèr fögnuð fullan lèði
sá sem gerði grund og sjó!“

6. En þess gætti ei andi minn,
eptir sem að hlaut að fylgja:
að sú dýra daggar-bylgja
átti líka enda sinn!
Það ertú, hin sæla sól,
sem að alt á jörðu vekur:
burt þú daggar dropann tekur
með geislanum frá gullnum stól!

7. Man jeg líka hvíta hrönn
hreifa brimi þrúngnum faldi,
rísa hátt með voða valdi,
krýna hamra froðu fönn:
óttaðist það öndin mín;
undrun vakti slíkur hljómur;
það var lífsins dauða-dómur —
drottinn! það var röddin þín!

8. Æska, þú ert úng og stór,
unaðfángin jötun-draumi!
hyggur, að í heimsins glaumi
leiki tómur sælu-sjór! —
Þegar tárin þorna á kinn,
þá er líka jelið flúið,
sorgin úti, bölið búið,
hlær við aptur himininn!

9. Ó þú barna ljúfa lund!
lèð var þèr að sjá og gleyma!
augnablikin, ótt sem streyma,
optast fá þèr unaðstund!
Þú ert laus við þennan harm,
þegar hjartað lengi syrgir,
nauðugt margt eitt bölið byrgir
djúpt í sorgar-særðum barm!

10. Þegar liðin þín er tíð,
þá mun veðrið optast breytast,
það mun frjósa, er fyrr var heitast:
vors er horfin blessun blíð.
Stöðugt logn ei standa má,
stofninn lífsins ormur nagar;
lángar nætur, litlir dagar—
hýr er draumur horfinn þá!

---

## EINS KONAR VÍSA,

SEM ALLIR SKILJA, SEM VILJA, EN ENGINN SKILUR, SEM EKKI VILL.

---

1. Gullfagurt blómið grætur,
gullfölduð báran hlær;
gullfagrar geisla-rætur
glóa, en Þorkell rær.

2. Gullfögur sólin svífur
svölum í himni skær;
leikandi laxinn klýfur
lækinn, en Þorkell rær.

3. Gánga á grænu engi
gimbur og kollótt ær;
Orfeus stilta strengi
strýkur, en Þorkell rær.

4. Prestur í hempu heldur
heilagri kirkju nær;
uppljómar drottins eldur
altarið: Þorkell rær.

5. Saumandi stúlkan stynur,
stirnir á augun mær;
alheimur allur dynur:
og altaf Þorkell rær!

---

## „SÔN, MIT SPYD JEG RÆKKER DIG."[1]

1. Taktu sverð og skæran skjöld,
skelfdu, sonur, Herjans öld,
nú er jeg þreyttur elli af,
og öllu, sem mèr drottinn gaf!

2. Silfurhvítt er senn mitt hár,
sjötíu eptir frægðar-ár;
þá drap jeg menn, svo dundi blóð,
og dreyra af varð öxin rjóð!

3. Nú eru orðin sverðin sljó:
sár jeg ótal með þeim hjó;
og ellin stígur yfir mig,
en æskan fríða kallar þig.

4. Jöfur gaf mèr hvassan hjör,
honum vígði eg arm og fjör;
gerðu eins með trygð og trú,
því tignarleg er æfin sú!

5. Sex hef jeg litið falla á fold,
fræga syni, í dökkva mold;

[1]) Kvæði þessu er einúngis lauslega snúið; það er frumkveðið á þýzku af Stolberg.

og frá mèr dó hin mjúka mey!
mín er það huggun, að jeg dey!

6. Vertu hraustur, mögur minn!
mín er gleði heiður þinn!
og allt mitt traust í heimi hèr
það hvílir nú á einum þèr!

7. Hlífðu þeim, sem heimtar líf,
heiðraðu ætíð mey og víf,
en brynjum á hið bjarta sverð
þú brýna átt í víkíngs-ferð!

8. Hræðstu ekki dauðans dör, —
dauðinn tekur allra fjör;
en hetjusál og hreystin skær
í heimi aldrei dáið fær!

---

## VORVÍSA.

---

1. Ó þú inndæla sól,
    með unað og ástgjafar ljóma!
þú, sem að lifandi ljós
    leiðir á fölnaða rós!

2. Þú, sem að vekur af værð
    úr vetrarins ískalda skauti
fræið, sem blundar á beð,
    blómið svo fáum vèr sèð!

3. Þú, sem að blæinn blíðkar,
    af bárum árgeisla runninn —
vermandi fer hann um fold!
    frjóvgar og þýðir upp mold!

4. Þú, sem að birtuna ber
    að björgum og fjarlægum dölum,
stöðug á fljúgandi ferð,
    fögur af alvaldi gerð!

5. Ímynd drottins, er alheiminn skóp
    og alheimi lýsir
voldugri vizkunnar sól
    veldis á eilífum stól!

6. Ímynd guðs, sem með óþrotlegum
og eilífum ljóma
sendir að dauðlegri sál
sannleikans hljómandi mál!

8. Gleddu mig, vorsól, með geislanna rún
á geysandi báru,
þegar þú heiðblátt um haf
hristir þinn ljómandi staf!

9. Gleddu mig, vorsól, er býrðu þèr beð
í bládjúpum öldum,
þegar þú grænkandi grund
gyllir, og kveður um stund!

10. Gleddu mig, vorsól, er aptur þú rís
af austrænni báru,
úng og inndæl á ný
uppi við dagroða ský!

---

## MINNI FRIDRIKS KONÚNGS SJÖUNÐA,
SÚNGID Á SKÓLAHÁTÍDINNI 6. OKTÓBER 1855.

---

1. Til Sælundar suðrænu stranda,
um særokinn brimdýra reit,
vèr svífum á saungvanna anda,
því sálin er fjörug og heit —
til þín vèr nú, lofðúngur, líðum
frá ljómandi jöklunum fríðum!
Og guði vèr þökkum og gæfunnar hag,
sem gaf oss að halda þinn fæðíngardag!

2. Þú foss, sem með fallanda hljóði
þèr fleygir um blómgvaðan svörð,
og þruma, sem þúngum í móði
fram þeysir um ísþakin skörð!
þið kveðið með hamrama hljóma,
svo heimskauta salirnir óma!
Og ljóshvítra eldínga leiptrandi safn,
það logar um Friðriks hins sjöunda nafn!

3. Þèr heilsar nú eyjan hin hvíta,
og horfna hún minnist á stund,
er fekk hún þig, fylkir, að líta,
sem fórst yfir dynjandi sund. —
Æ efli þig farsæld og friður,
sem fastlegast þjóðirnar stydur!
Og Seraph með leiptrandi sverðið í hönd
þig sveipi með vængjum og geymi þín lönd!

---

# MINNI ÍSLANDS
## 6. OKTÓBER 1855.

---

1. Rístu nú úr draumanna djúpi!
Deyddu þögnina, ástkæra hljóð!
Varpaðu' af þèr heldimmum hjúpi—
:,: hlustið eptir: hann dynur sem blóð! :,:
Það eru bylgjur dáinna daga,
dynja á flugi að Urðar straum —
en nafnið hlær í háum glaum,
hljómar það til eilífðar Saga:
„Eldgamla Ísafold!
ástkæra fósturmold!“
á meðan gjálfur girðir lönd,
þig geymi drottins hönd!

2. Fornu hetjur farsælla alda,
fagurskygðar und ljómandi hlíf!
þèr, sem fyrir frónið vort kalda
:,: fegnir gáfuð eignir og líf! :,:
Yðar vèr minnumst, yður skal hljóma
endalaust lofið hjörtum frá!
Vèr fæddumst yðar haugum hjá,
heiður yðar skal yfir þeim ljóma!
„Eldgamla Ísafold!
ástkæra fósturmold!“
á meðan gjálfur girðir lönd!
þig geymi drottins hönd!

3. Kenn oss, guðdóms kraptur á hæðum;
kraptinn gamla að eignast og fá!
Láttu fjörið lifna í æðum,
:,: líkt og feðrunum okkar var hjá! :,:.
En eru sömu jöklar sem standa,
en þá hinn sami dunar sær,
og enn þá sama grasið grær,
golan sama leikur með anda.
„Eldgamla Ísafold!
ástkæra fósturmold!“
þig guðdóms kraptur geymi hár
um gjörvöll heimsins ár!

